## Framhald um Christinndómsins útbreidslu á þessum tímum.

Það er alkunnugt að þar eru til fernslags adalkyn Trúarbragda í heiminum, nefniliga: 1) Gydínganna; 2) Christinna; 3) Heidíngjanna og 4) Tyrkjanna. Trúarbrøgd Gydínganna (ad því leiti þau samhljóda Gamla Testamentinu) eru þau eldstu, og reyndar heiminum jafngømul; þau Christnu eru ad nockru leiti framhald þessara, edur þau eldstu Trúarbrøgd, hafin á fullkomnari troppu. Heidíngjanna Trúarbrøgd voru fyrst ei annad enn afbøkun af Trú Gydínganna, sem sídan, á ýmsan hátt, fylltist mestu hérvillu og hjátrú. En Tyrkjanna Trúarbrøgd, eru nockurskonar Sambland af hinum þremur, laungu sídar uppkomin. Samt eru medal þessara fernslags Trúarbragda óhángenda, hvorra um sig, margfaldar adgreiníngar og trúarmeiníngaflockar, sem ei kémur saman í ýmsum atridum. Nú géta þó ecki nema einúngis ein Trúarbrøgd ad

øllu leiti sønn verid; og — hvør hlióta þau ad vera? Þau sem Gudi eru verduguſt, og manneſkjum gagnliguſt. En hvør af þeſſum ádurnefndu Trúarbrøgdum hafi nú helſt þeſſa eiginligleika, vita allir þeir, sem þeirra innihald þeckja. Ad dýrdka Skaparann med hreinu hugarfari og dygdugu líferni, og leita Æru hans yfir allt fram; elſka sínar medmanneſkjur eins og siálfa ſig og ſtunda eptir þeirra gagni; meta ſinnar og annara Sálar velferd og ſorga fyrir henni, lángtum framar enn líkamans; gleyma því aldrei, ad eilífdin kémur eptir tíman, hvar Manneſkian uppſkéra ſkal gjøld athafna ſinna; en midt í øllu þeſſu kannaſt þó vid ſinn vanſa, og hætta aldrei ſamt ad kappkoſta ad yfirvinna hann; þau Trúarbrøgd, ſem þeſsa lærdóma innræta, hlióta víſt ad vera Gudi dýrdliguſt og Manneſkjum holluſt. Nú er audvitad, ad eingin kénna þetta eins vel, og þau chriſtilegu. Því ſiálf Gydínganna Trúarbrøgd, ſem þó eru frá Gudi í øndverdu, kénna þad ecki eins algjørliga ſem þau; þar hin vóru gjørd fyrir heimſins Barndóm, og þeſsvegna margt í þeim ſvo lágad, ſem heimſins fullordins aldri ei hentar. Þá var Gudsdýrdkanin full af útvortis Ceremoníum, ſem locka ſkyldu menn og undirbúa til þeirrar, ſem innvortis ſkédur í Anda og Sannleika; þá var ſá almenni Náúngans

kærleiki ecki enn nú framsettur í svo skjæru ljósi, sem þau Christnu Trúarbrøgd gjøra það; þá var Manneskjunnar áqvardan til eilífdarinnar, og hans stóra skylda, ad sorga framar fyrir sálu enn líkama, ei svo ljósliga brýnd fyrir mønnum, sem Christur og hans Postular gjørdu; þá var það sanna fullkomna adalmedal, til ad ná hylli Skapara síns — sem flestar Manneskjur máttu þó finna, ad þær af sjálfsvoldum gjørtapad høfdu, og enda þeir bestu medal þeirra vera sárbrædðir um, ad ei haldid gjætu, vegna einhvørs ástríd-anda og ad nockru leiti ósjálfráds náttúru vansa; — þetta medal, seigi eg, var ecki Gydíngum svo gløggliga opinberad, sem oss hinum Christnu. Hvar fyrir Gydíngar, sem enn nú vid það gamla Barnastafrof halda vilja, og forsmá þann full-komnari Gudsdýrkunar máta, sem Christinndóm-urinn kénnir, hafa í neyd og deyd einga gagn-liga huggun til ad grípa; allrasídst þar Sam-vitska þeirra hlýtur ad bera þeim á brýn, ad þeir sjálfa gamla Testamentisins lærdóma ráng-færi, þess Spádóma misþýdi, og þess ótvírædu vegleidslu til Christs og hans andliga ríkis ecki fæla vilji. Og hvad er þá ad tala um Tyrkja og Heidíngja, hvørra Trúarbrøgd lángt fráleitari eru þeirri sønnu Gudsdýrdkun; því þó Tyrkjar

hafi nockurn gódan dygdalærdóm í bland, sumpart dreiginn af Ritníngunni, forsmá þeir þó þó sönnu Undirstödu allra dygda, sem Gudi líka skulu, nefniliga Trúna á Guds Son, og taka sitt athvarf hjá þeim falska Spámanni Mahómeth í stadinn; hvør, til ad locka menn því heldur til sinna Trúarbragda, býdur þad margt og leyfir, sem hreinni Skynsemi mótistrídir, og hindrar þá sönnu Gudsdýrkun, ad eg ecki tali um þann almenniliga Náúngans kjærleika og umsorgun fyrir sálarinnar gagni framar enn líkamans. En séu nú Tyrkjanna Trúarbrøgd svo óhentug og ónóg til ad efla mannkynsins sönnu heill, þar þau þó hafa nockra litla skýmu af Sannleikans ljósi í bland, hvad þá þeirra vesælu heidíngja, sem flestir búa í skýmulausum daudans skuggadal; hjá þeim er hin sanna Gudsdýrdkan aldeilis á flótta rekin, Náúngans almenniligi kjærleiki hreint útlægur og Sálarinnar háleita verd alls óþeckt; þar eru stockar og steinar og allra handa ófreskjur dýrdkadar ístadinn þess eina sanna Guds; Manneskjur offækja og eydileggja þar hvør adra, verr enn grimmustu villudýr, líkamligrar ánægju er leitad opt á þann hátt sem líkamanum sjálfum skadligast er, ad eg ecki tali um sálunni; í einu ordi: þar er kvøl og hørmúng bædi yfir sálu og líkama. Og allri þessari ólucku veldur þeirra

ránga Gudsdýrkan. Þvî þar sem þeir þó ecki géta án þess verid, ad hafa einhvorn Gud, hjá hvorjum þeir vilja hylli og hælis leita, en hverki þeckja þann sanna, né þann rétta máta ad dýrdka hann og þóknast honum, þá verdur þeirra ránga Gudsdýrdkan þeim eins skadlig og banvæn bædi fyrir sálu og líf, eins og hin sanna, eptir Christindóminum, er hennar trúlyndu rækjurum holl og blessunarfull. A þessu örlar allstadar hvar skortur finst á sannri Gudsdýrdkun, ecki einúngis hjá Gydíngum, Tyrkjum og heidíngjum, heldur og svo ad nockru leiti hjá Christnum. Þvî þó Trúarbrøgd þeirra seú î sjálfum sér þau hreinustu — þegar þau skilud eru eptir heil. Ritníngu — þá gétur samt ecki heillarîki þeirra ordid allra Christindómsins áhángenda hlutskipti, sökum þess margir þeirra, annadhvort af stolti edur hyrdulevsi, misskilja þau; eda þó nockurnveiginn rétt skilji, vanrækja samt ad fylgja þeirra heil. reglum, um dýrdkun Skaparans og rétta eptirleitun sinnar líkamligu og andligu lucku. Og géti nú ad nockru leiti svo tilgeingid medal Christinna, hvörsu ómumflýanligt er þá, ad svo til gángi medal þeirra, sem villtum Trúarbrøgdum fylgja; en þvî argari sem villan er, þess stærri er óluckan. Til dæmis: hjá Gydíngum, hvîlik plágandi hugsýki fyrir þvî líkamliga; hvîlik örvæntíng um Guds fyrirheita

uppfyllíngu, og hvíllk hugganar- og vonarleysi í daudanum? Hjá Tyrkjum hvíllk óverdug ímindan um hátign Guds og um eptirkomanda Lífs gjædi; hvíllk brennandi hatur og forakt til þeirra Christnu, og jafnvel til allra sem ei vilja hyllast þeirra trúarlærdóm; hvílík drottnunarsýki og kúgan hjá þeim yfirbodnu, en plágandi þrældómshlýdni hjá þeim undirgefnu; hvíllk annadhvort nagandi edur ramvillt og sofandi Samvitska, þegar daudinn adkémur? og — hjá heidingjunum, hvíllk ósköp gánga þar á! Ein manneskja offærir þar og plágar adra; Foreldrarnir myrda börnin, börnin Foreldrana til ad ávinna hylli Guda sinna, af því þeir ecki þeckja þad rétta Forlíkunarmedal, en finna sig þó þurfa þess vid; konurnar brennast lifandi med mönnum sínum; þénarar og undirsátar meiga med píslum og dauda bæta fyrir sinna yfirmanna syndir, og allrahanda óútskýranligar hörmúngar liggja þar á manneskjuligri náttúru. Nú þó ecki gángi heldur í öllu vel til medal Christinna, sem misbrúka sín bestu Trúarbrögd, sámt er þad eingu líkt því, sem til geingur medal þeirra vesælu heidíngja. Því hvorsu mikid Christinudómurinn betrad hafi lands og lída kjor, hjá því sem ádur var, medan heidin Trúarbrögd ríktu, einkum sídan hann hreinsadist med endurbótinni, verdur ecki í fám ordum fráságt. Þad sýna best þær gömlu

Sögur um hagi og ástand Forfedra vorra á fyrri tímum; þegar menn valla máttu ad kvöldi sánga til reckju, óhultir um, ad þeir yrdu ecki af óvinum sínum yfirfallnir, annadhvört med mords-brennum edur vopnum *). Enn nu meiga menn, fyrir Guds nád, óhræddir vera fyrir slíku; sem einúngis er, og þúsundfaldt fleira gott, Christinn-dóminum ad þacka, sem svo merkiliga betrad hefur lög og landstjórn, og kénnt mönnum, ad sönn innbyrdis elska se undirrót allrar tímanligrar luckn. Nú mætti þó allt þetta miklu betra verda, enn er, ef christilig Trúarbrögd væru svo rækt sem skyldi; því rétt í sömu tröppu sem þad gjört er, fer manna svo vel líkamligu sem andligu ástandi fram eda aptur; svo þessi ord Postulans: „ad gudhrædslan sé til allra hluta nytsamlig" rætast alltíd. Væri christin trú vel rækt, mundi fridur og eindrægni í því góda, ríkja manna á milli; einginn mundi þá vísvitandi gjöra á

*) Væru þær gömlu Sögur lesnar í því augnamidi, ad sjá þau stóru blunnindi sem Christindómurinn fært hefur, fram yfir þad sem var á heidindóms og Páfadóms tídum, svo menn tæku sér þar af tilefni ad elska hann og rækja þess betur, gjæti lestur þeirra ordid eins gagnligur, sem hætt er vid, hann verdi skadligur, þegar hugarfar og tilgángur Lesarans er annad.

annars hluta, hvør mundi þá stunda annars gagn sem sitt; þá yrdu Guds gáfur í náttúrunni notadar med ydjusemi, sparsemi og kiærleika; eingin øfund mundi þá stad hafa, heldur gledi yfir annara lucku sem sinni; eingin ágyrni og maura sanidráttur, en þó kostgiæfni í kalli og embætti; eckert undirferli né slóttskapur, heldur einlægni og hreinskilni í øllum greinum; yfir høfud, þá mundi Kóngurinn hafa bestu undirsáta og lønd og lídir bestu stjórnendur, já heimurinn mundi verda annur Paradís.

O hvílík Skylda liggur þá á oss Christnum, sem erum eigendur þessara blessudu Trúarbragda, ad brúka þau réttiliga, Gudi og hans Christ til æru, en siálfum oss og vorum medmannesskjum til heilla. Búumst vid ad vér høfum einhvørn hinn þýngsta reikning ad standa af þessu Guds pundi; grøfum þad þessvegna ecki í jørdu, med þeim lata þjón, heldur verdslum því, svo vér þarmed áunnid gétum eignar-herranum ard, en siálfum oss nádarlaun, á tíma reikningskaparins. En hvørnig skulum vér þessari verdslun haga? A þann hátt, ad vér fyrst notum oss þad sem best siálfir, þarnæst upphvetjum þá til þess sem í kríngum oss eru, og í þridja máta sendum þad ødrum sem þad ecki hafa. Og víst er um þad, ad sá notar sér siálfum aldrei þetta Guds góts

réttvel, sem ei vill verja neinu ómaki og kostnadi til ad medbýta því ødrum, einkum sé hann þar til upphvattur. Á þessum døgum eru margir Christnir teknir, betur enn ádur, ad kannast vid þá stóru Skyldu, á þeim liggur, ad útdeila ødrum þessum himneska Féssjódi, einkum þjódum þeim, sem ei hafa ádur af honum vitad, svo sem heidíngjunum (af hvørra tølu flestar manneskjur á jørdunni til eru); líka svo hinum, er hann ádur misþeckt hafa, svosem Gydíngum og Tyrkjum, og svo undir eins upphvetja hvør annan innbyrdis, til ad færa sjálfum sér sem best í nyt Guds gáfu þessa.

Mørg andrík og uppbyggilig ord hafa um þetta efni tølud verid, á Samkomum þeim, sem allvída haldast þessu augnamidi til eflíngar, svo hjørtu margra, sem ádur køld voru, hafa vermst þar vid, og tekid sídan ad bera meiri umhyggju, enn ádur, fyrir velferd sinni og annara. Í Skýrslum þeim sem eg ádur framsett hefi um efni þetta (í No. 42 og 45 þessara Smárita) hafa lesendur mínir feingid ad heyra tvær ypparligar rædur, hér ad lúgandi. Fáein ord eptir einn Prest, sem upptendradur af þessari heil. drift, vildi og svo adra upptendra, vil eg hér tilsetja. Hann var sendur til eyarinnar Malta, ad útbreida þar Christinndóm, hvar hann á einni hátídligri sam-

komu talàdi á þennan hátt: „Eg minnist, sagdi hann, ad eg einhvorn tíma lesid hefi, ad þegar borgin Sagúnt, í því ødru púniska stríði fordum, var hersetin af Cartaginiskum, og þad rómverska rád gat leingi vel ecki komid sér saman um hjálp þá, er þad þeim umsetnu senda skyldi, fèck einn víss rádherra lokfins hrundid framkvæmd þeirra fram, med þessum ordum: „medan Róm rádslagar, geingur Sagúnt til grunna!“ Skyldi nú þánki þessi ecki heimfærast meiga uppá Missións verkid? Medan þeir christnu med lángsemi rádslaga, hrapar heimurinn ad sínum undirgángi.

Ecki er þad samt meiníng orda minna, ad eg vilji menn skuli rasa fyrir ráð fram, heldur óska eg, ad fá lagt fólki þann þánka á hjarta: ad vid sérhvørt tapàd augnablik, søkkur veróldin undir fótum vorum! Alíti menn nú, eptir vidteknum reikníngi, tølu manneskjanna á jørdunni þúsund milliónir, og setji sérhvørrar ættkvíslar aldur 30 ár, þá flýtur þar af, ad ein manneskju Sál fer inn í eilífdina á sérhvørju augnabliki. Hvørsu mætti nú þánki þessi storma uppá hjørtu vor? Eda til hvørs mundi hjarta mitt finna, ef eg vissi, ad rétt á þessu augnabliki, skyldi einhvør minna dýrmætustu ástvina skilja vid heiminn? og þó giørir þetta í verunni alls ecki til sakarinnar, hvørt hann er skildur mér

eda vandalaus. Eda ber mér ecki ad álíta sérhvorja manneskju fyrir minn náúnga, minn Vin og bródur? Minn Frelsari hefur þó kénnt mér svo. Hvor einn Adams nidji er mín medmanneskja, hvort heldur hann er svo nærri mér, ad eg fæ læst hann í fadmi mínum, ellegar hann er innbúi landa þeirra, sem liggja undir mínum fótum hinumeiginn á jardarhnettinum. Staduriun, Standid og Daudsmátinn umbreyta eingu í þessu tilliti. Látum manneskjuna hafa, án Guds og án Vonar, ómættst af sólarinnar brennandi hita í sandeydimerkum Arablu, ellegar látum hana í heilagri andagt sálast hafa á sóttarsæng, medal Christinna; mér er nóg, ad eg veit, ad einn af mínum brædrum af náttúrunni hefur, rétt á þessu augnabliki, skilist hér vid, og ádurenn eg búinn er ad fullenda þennan þánka, er allareidu aptur annar þridji og fiórdi floginn inní eilífdina. O, ef ad eg kynni ad kalla þær Sálir hér fram fyrir oss, sem á þessum fáu augnablikum, sídan vér komum hér saman, hafa yfirgéfid veroldina! og ef þær giætu þá útlistad oss, hvad þær á augnabliki síns vidskilnadar séd hefdu og fornumid, mundu máské nockrar þeirra sýna oss þá sjón, er mætti rétt sundurslíta hjörtu vor af ofbodi, midt í því adrar lífgudu þau med slíkum dýrdar ljóma, er ei hefdi auga séd né eyra heyrt, edur í nockurs

óska, ad sálir þessara hinna algjördu mættu hér í minn stad mæla fyrir Missíóns sókinni, vid ydur! En þess er nú ei ad vænta, því þeirra stadur er hér ei framar; heldur eins og sálir hinna ólukkuligu inniluktar eru í fángelsi myrkranna, hvadan þær ei útkomist fá, svo bada hinar sælu sálir í umskiptalausum fagnadi, á Lífsins landi. En hér lifa enn nú Milliónir á jardarinnar stóra skodunar plátsi, milliónir fædast, milliónir deya, og allar þessar, ásamt þeim í eilífdina inngéngnu hrópa til vor og minna oss á vorn stóra reikníngskap er vér standa eigum, þá minst varir, fyrir Christs dómstóli; Reikníngskap fyrir það, hvorsu vér verdslad hofum pundi Evangelii, oss og ödrum til heilla, já þær líka sem særa oss, ad vér gjöra skulum alvarliga gángskör ad því, ad hjálpa þeim mörgu milliónum sálna, sem hér eptir munu lífs verda á jördunni, ad hjálpa þeim, svo þær deyi ecki ófarsælum dauda, og enda ödlast géti sanna samvitskuró hér í þessu lífi".

Einn annar Prestur sagdi í rædu sinni um sama efni: „vér hofum orsök til ad brúka ord Jakobs sona, þegar vér lítum til forsómunar vorrar, í ad hjálpa ecki þeim heidnu þjódum frá þeirra Sólar tjóni. Til þessa hofum vér unnid med breytni vid bródur vorn, sögdu þeir fordum,

þegar vér sáum hans sálaróngist, hann bad oss, en vér vildum ecki heyra hann; þar fyrir kémur nú hormúng þessi yfir oss. Sama meigum vér seigja: vér vitum hvorsu tilgeingur medal þeirra viltu heidíngja, hvorsu þær ólucfuligu Eckjur hjá þeim hrópa, af daudans óngist, þegar þær reirdar hjátrúarinnar blódugu bondum, steypast af þeim miskunarlausu Bramínum i bálid vid hlidina á síns egtamans líki; hvorsu ad þær vesælu barnasképnur, sem varpad er í Ganges fljótid í Indíum, sárgrætiliga veina og æpa eptir hjálp, og eingiun miskunar þeim. En vér, þó sumir af oss hafi vitad þetta, (og nú vita þad allir þeir, sem þetta sjá og lesa), hofum þó ecki kéndt í brjósti um þessa vesælinga, né hyrdt um ad senda þeim Guds nádar Evangelíum, sem er sú einasta lækning vid þessari skelfiligu blindri hjátrú og glæpum. Ei kunnum vér ad kénna módur vorri, christilegri kyrkju, um þessa vora forsómunar synd; þvi leingi hefur hún brýnt fyrir oss þessa skyldu vora. Hefur hún ecki í vorri opinberu kyrkjubæn kénnt oss svoleidis ad bidja: „ad badi heidíngjar og adrir óupplýstir Christnir mættu, fyrir ordsins prédikun, snúast frá myrkrunum til Ljóssins." En hvorja atburdi hofum vér í verkinu til þessa sýndt, hvorju hofum vér viljad tilkosta? Sú kalda og ávaxtarlausa vanabæn hlýtur ad verda oss til syndar. Nú er þá

meir enn mál komid, ad vér sjáum ad oss. Látum oss því sameina fyrst vorar bænir, sídan adburdi og tilkostnad ad ná því stóra augnamidi, ad Jesú ríki útbreidist, og ad sem flestar Sálir frelsast mættu frá líkamligu og andligu volædi; stodum til þess ad Evangelii blessunarfulli bikar útberast meigi til allra Adams barna, svo allar þjódir mættu fá ad drecka svølun af hønum, fyrir sálu og líf. Vitum fyrir víst, ad tilraun sú verdur oss ecki ólaunud í upprisu réttlátra. Látum oss því ydrast vors hyrduleysis í þessu bíngad til, og taka fyrir oss ad gjøra betur framveigis; þar vér høfum stærstu orsøk ad efast um, ad umvendan vor géti nockurntíma sønn ordid, ef vér vitum þessa vora skyldu, en gjørum hana ecki, annadhvørt af kjærleiksleysi, hyrduleysi edur nídsku. Vér þurfum þó aldeilis ecki ad efast um, ad frelsari vor vill leggja adstod til þessara atburda; því undir eins og hann útgaf þetta guddómliga bodord: „farid út um allan heim, og prédikid Evangelium allri skepnu!" bætti hann þessu merkiliga fyrirheiti vid: „sjáid eg er med ydur, allt til veraldar enda." Bidjum því Gud af hjarta um fyrirgéfníngu á forsómun vorri allt ad þessu, en undir eins um nád til betri framqvæmdar eptirleidis, og upphvetjum hvør annan til þessarar skyldu.

* * *

En til ad sanna þad fyrir Lesendunum — sem ýmsir þeirra kannské efast um — hvørsu ad adburdir þeir, sem á þessum døgum sýndir eru til útbreidslu Evangelii, færi á vissum stødum dýrdligustu ávexti, skal eptirfylgjandi sannferdug frásaga þéna:

Á sudurhvolfi hnattar vors liggja mjøg mørg eylønd, sem nýfundin eru, í hvørjum øllum bjuggu heidíngjar, hádir hinni svívyrdiligustu afgudadýrkun, og allskyns þar med fylgjandi glæpum. Eitt af eyløndum þessum heitir Otaheiti, hvar Kóngur einn ríkir yfir þeirri eyju og fleirum ødrum.

Híngad vóru Missiónerar, eda Christinndóms bodendur frá Englandi sendir árid 1797. Kóngurinn Pómarre hinn eldri, sem þá ríkti þar, veitti þeim góda vidtøku; og sá ýngri Pómarre, sonur hans, héldt áfram, nær hann Kóngur vard, ad feta í fótspor Fødur síns; var og líka af sínum undirsátum álitinn einhvør hinn besti Kóngur. En samt héldt hann fram um hríd ad láta byggja afguda ølturu, á hvørjum hann fórnfærdi ecki ad eins ýmsum dýrmætum hlutum, heldur og líka Manneskjum, til ad fridþægja þar med sína Afgudi. Einn Missiónari heldur ad hann á þennan

hátt hafi, í það minsta, myrdt 2 þúsund manneskjur.

Í 7 ár, frá því Missíónerarnir fyrst komu þángad hefdu þeir lítinn ávöxt séd af erfidi sínu, enda þeir hefdu ei hina bestu vidleitni sparad, ad útbreida þar Christinndóminn, og stofnad sér opt í störan háska. Því þó margir feingid hefdu þeckíngu trúarbragdanna, heldu þeir samt áfram í sinni afgudadýrdkun, í skeytíngarleysi um sálarinnar frelsi og í hinum grófustu löstum. Þó hafdi Missíóns Félagid þá traustu von til Guds, ad þad góda sædi mundi ei ávaxtarlaust verda, og huggadi kénnendurnar med þeirri von: „ad þeir sem med tárum nidursá, muni úppskéra med fögnudi" hvörja þeirra von, sá gódi Gud lét og merkiliga rætast sídar meir. Þó héldt nú fólkid áfram um hríd í sama skeytíngarleysi, og mótstrídu gégn Guds ordi; en Missíónerarnir þreyttust einganveiginn fyrir þad í sínu kappsfulla erfidi, og kéndu innbyggjurunum ad lesa og skrifa. Einkum lögdu þeir mikla alúd vid úngdóminn, sem líka svo tók gódum framförum. Og svo lét Kóngurinn uppfræda sig, og í byrjun ársins 1807 skrifadi hann sitt fyrsta bréf, sem sýndi, ad hann hefdi mikla laungun til ad innleida christna trú þar í landid; þó vyrdtist sem hann enn nu þeinkti framar til þeirra veraldligu íþrótta og vísinda, sem

Christindóminum fylgdu, enn til hans sáluhjálp-
ligu nota.

En á medan þessu framfór skédi árid 1808
upphlaup medal Pómarres undirsáta, sem vildu
steita hann frá tróninum. Upphlaupsmennirnir
feingu sigur og uppbrendu Missíóneranna bústadi,
samt ræntu eignum þeirra. Sjálfir Missíónerar-
nir flúdu til annarar eyjar; hvar þeir héldu fram
ad sá sínu góda sædi sem ádur.

Kóngurinn flúdi til eyarinnar Eimeo, og fann
nú med ángri, ad hann hafdi misst þeirra frá sér;
skrifadi þeim því til sína inniligustu bæn, ad þeir
vildu koma til sín aptur; hvad þeir og gjördu,
eptir þad fridur var ákominn, og Pómarre aptur
til Kóngs tekinn. Í frá þessari tíd sýndi Kóng-
urinn ad hann væri fullsannfærdur um Evangelii
sannleika, og lét, í Júlío 1812, ósk sína í ljósi,
ad hann vildi skýrn taka. Jafnvel hann allareidu
í fjærveru Missíóneranna, hefdi ásmád sína af
gudi, regluliga haldid sunnudaginn heilagan, og
sýnt mikid ángur yfir sínu fyrra lastafulla líferni,
héldu samt Missíónerarnir ad sér undandraga
bæri skýrn hans, þar til hann feingid hefdi rót-
grónari þeckíngu trúarbragdanna, og sýnt fleiri
stödugleika merki til sinnar umvendunar. Kóng-
urinn gjördi sig aldeilis ánægdan yfir þessari

þeirra áqvardan. Nú tók og svo christiligt sinnislag meir og meir ad votta sig medal fólksins, og útlitid vard glediligt. Þann 17 Júlii 1813 ritadi Kónguriun fylgjandi bréf, til þeirra christnu kénnenda, þar á nábúa eyjunum:

„Mínir kjæru Vinir!"

„Jehóva, Jesús Christur blessi ydur og mig, þann slæma Mann, sem fyllt hefi mælir minna misgjörda. Eg samsinni fylliliga, dýrmætu Vinir! því forslagi, sem ydar sídarsta bréf inniheldur; hvar í þér bidjid um leyfi, ad høggva upp Tamana og Omai *); høggvid þaug upp, án þess ad spyrja um afleidsluna, og gjørid úr þeim kjøl í skip vort! Hvad gétur þar af flotid? vilja máské vondir andar fyrir þad steypa oss til grunna? þad géta þeir alls ecki, því vér hofum svo mektugan Frelsara, Jesúm Christum. Ydar fótsporum vil eg fylgja, og hugsa eckert um hvad mér mæta kann, mér hinum slæma manni. Sá þríeini kann og vill gjøra vid mig þad sem gott er. Eg vil med øllum mínum misgjørdum voga ad snúa mér til Jesúm Christum, til þess ad eg, svo rótvondur sem eg er, géti þó frelsast fyrir Jehóva, Jesúm Christum; þó þar sé eingin mann-

*) Þetta voru líkast til 2 tré, helgud fólksins afgudum.

neskja eins slæm sem eg, edur eins full af misgiördum, prálátri óhlýdni og sannleikans útskúfun." Þetta er nú innihaldid af Kóngsins bréfi.

Árid 1814 skrifudu Missiónerarnir frá Eimeo: „ad þeir skiptad hefdu litinn söfnud af 50 Manneskjum, sem af hinum ødrum innbyggjurum væru af spotti kalladir: Bure atúa; þad er: bidjandi Manneskjur." En þessi safnadar tala fór þó ætíd í voxt; svo ad, med byrjan ársins 1815, komu um 300 frá Otaheiti og ødrum eyjum, til ad fá uppfrædingu í Christinndóminum. Á sjálfri Otaheiti, hvar Missiónerarnir hafa aptur adsetst, vóx Søfnudurinn líkasvo, og Guds ord gékk fram med krapti. En nú tók helvítis makt ad láta sig í ljósi, eins og vant er, hvar sem Guds ríki útbreidist. Þar hófst ein mikil ofsókn á Otaheiti gégn þeim bidjandi Manneskjum. Menn brendu þeirra bústadi, ráku þá af landi burt; já í rádi var ad fórnfæra einum þeirra offéktu, afgudnum Oro, sem þó fyrir Guds tilstilli hindradist. England hafdi stødugliga áframhaldid ad ad senda Missiónera til þessara landa, svo hér vóru nú 17 tals á Eimeo, Otaheiti og ødrum nálægum eyjum; og þó voru nockrir af þeim dánir. Fleiri og fleiri af innbyggjurunum geingu nú til þess christna safnadar; og þar ad auki affagdi

einn Afguda Prestur á Eimeo þá heidnu trú, og gjørdist christinn. Margir fylgdu dæmi hans, brendu sín afguda bílæti, og umturnudu þeim stødum, á hvørjum vani hafdi verid ad fórnfæra Manneskjum.

Þá ásettu óvinir hinna christnu á Otaheiti sér med leyndum ad drepa allar bidjandi Manneskjur, á einni nóttu. Sá 7di Júlii var áqvardadur til þessa mords; en hann sem himni og jørdu stjórnar, og vardveitir þá sem honum treysta, afventi ólucfunni. Rádslagid komst upp, og þeir christnu komust undan á flótta, til Eimeo, hvar Kóngurinn enn nú dvaldi.

Þeir heidnu innbyggendur á Otaheiti skiptust í 2 flocka, og hádu strid innbyrdis, hvør á móti ødrum. Jafnvel þó nú Pómarre blandadi sér eckert í strid þetta, og héldi hvørki med einum né ødrum þessara flocka, heldur sendi opt fridar forslag til þeirra; samt jukust innbyrdis óeyrdirnar, bædi á Otaheiti og Eimeo, og þad svo magnliga, ad albúid var ad Kóngsins yfirdrottnan mundi til grunna gánga ældúngis. Júlii og August Mánadir 1815 vóru sannir ángistar dagar, og sýndust boda svovel Missiónerannna sem hinna annara christnu, gjørsamliga eydileggíngu. Þann 14da Julii var af þeim christnu haldinn einn almenniligur ydrunar og bænadagur, og

Drottinn heyrdi þá í þeirra ángist, nær þeir til hans hrópudu. Þó kom frelsid fram á allan annan hátt, enn menn viddbúist höfdu. Þegar þeir stridandi flockar á Otaheiti eydilagt høfdu nockur héröd í landinu, og annar flockurinn vard svo adþreyngdur; ad hann hlaut ad fela sig þar á millum fjallanna, þá kom þad tilbod (frá þeim flockinum sem sigrad hafdi) til þeirra, sem slúid høfdu til Eimeo, ad þeir skyldu koma heim aptur, og taka aptur á móti eignum sínum, í fridi. Eptir landsins sid, átti Kóngurinn ad fylgja þeim innbodnu, og hátídliga innsetja þá í þeirra eignarrétt. En sem þeir nálgudust strondina, var med fjandskap móti þeim tekid. Þómarre fyrirbaud þá monnum sínum ad skjóta á óvinina, og sendi eitt fridarbod til þeirra, sem verkadi þad, ad þar stiptadist einslags sameining. En heimugliga braust þó eldurinn um, inn til þess 12 Novemb. 1815, sem var sunnudagur. Þeir christnu høfdu þá samansafnast til Guds þjónustugjordar. Þetta tækifæri vildu óvinir þeirra nota sér, til ad yfirfalla þá á andagtar tímanum, því þeir héldu, ad þeir þá mundu hitta þá vopnlausa. En Missíónerarnir høfdu fyrirfram, ádur þeir fóru frá Eimo, varad þá vid því, ad þad tilbod sem óvinir þeirra gjordu þeim, kynni máske vera undirferli, og rédu þeim því, ad vera vopn-

adir á þeirra bænatímum. Hvorsvegna óvinum þeirra brást ætlan sín. Ad vísu vard fyrst í stad óregla á medal hinna christnu, þar þeir vóru svo hastarliga yfirfallnir, en samt komust þeir fljótt aptur í reglu, og þá vard þar hódur blódugur bardagi, svo mikill fjoldi féll á bádar sídur. Í Kóngsins flocki og foruneyti voru þar sumpart heidnir flóttamenn; en hans christnu undirsátar geingu fyrir herlidinu og stýrdu því; og þar sumir á medal þeirra gátu ei, vegna skógs og vidarrunna, ótt þátt ad orustunni, þá féllu þeir til jardar og gjordu heita bæn fyrir Christinndómsins sigri. Drottinn heyrdi og bæn þeirra. Foríngi óvina lidsins féll, hvorsvegna fólki hans fellst hugur, og Pómarre vann fullkominn sigur. Þeir yfirunnu og mótstrídugu undirsátar hans bjuggust nú ei vid odru, enn þeir, eptir landsins sid, yrdu líflátnir méd skélfiligustu píslum; en Pómarre vidurkéndi, ad þau guddómligu trúarbrogd, hann tekid hafdi, bydi sér ad æfa mildi og sáttfýsi, hvorsvegna hann qvadst vilja fyrirgéfa þeim uppá þá kosti, ad þeir hér eptir sýndi sér tilbætiliga hlýdni. Þetta kom Fólkinu alls óvart, og gjordi svo mikla verkun í hjarta þess — þared þad af þessu séd gat Jesú lærdóms ypparligleika — ad þad kom hópum saman, til ad bidja um uppfrædíngu í Christinndóminum, og

til ad verda stýrt í Frelsarans nafni. Daginn eptir orustuna héldt Kóngurinn og hans trúfostu áhángendur, christiliga þakklætis hátíd, á hvørri margir, sem ádur verid høfdu verstu afgudadýrkendur, gáfu sig í hóp christinna manna. Pómarre var nú algjørliga hylltur fyrir ríkisins Konúng, og hann setti þá til embættis manna, um hvørja hann fyrir víst vissi, ad þeir vóru christindómsins vinir. Þareptir var øll afgudaþjónusta aftekin á Otaheiti og fleirum eyjum, sömuleidis allar mannesskju fórnfæríngar og barnamord; og sjölkid flyktist í hópum til ad fá uppfrædíngu í trúarbrøgdunum; Sunnudagurinn var regluliga heilagur haldinn og Guds hús uppbygd á mørgum stødum. Þar sem þau vantadi, voru samt hvørn sunnu- og midviku-dag haldnir bænatímar. Þann 19 Febr. 1816 skrifadi Pómarre til Missiónerunum, og afhendti þeim øll sín afgudabílæti, sem frá eldgamallri tíd høfdu dýrkud verid af fortedrum hans, og sídarst af sjálfum hønum. Hann beiddist ad þau væru annadhvørt uppbrend, edur send til Englands. Missiónerarnir kusu þad sídara og sendu þau med einu bréfi af 31 Octob. 1816, í hvørju í ljósi látin verdur sú inniligasta gledi yfir þessu merkiliga christindómsins sigurhrósi. Girndin eptir ad þeckja Jesú trúarbrøgd heldur áfram ad

vera stór, og er í morgnum hérodum stígin á þá troppu, ad fólkinu sárleidist, ad þad ei gétur feingid hana svo fljótt þad vill; svo innbyggendurnir hrópa til þeirra nýkomnu Missiónera: æ flýtid ydur, flýtid ydur ad læra vort túngumál svo þér gétid uppfrædt oss! Árid 1817, vóru 84 bænahús algjørliga uppbygd ordin. Líka svo sýnir Christindómurinn verkun sína í fólksins lifnadi, því skrifar einn Missiónari: „Munneidar heyrast nú ei framar, nema þegar Evrópisk skip lenda hjá oss; vér høfum heldur einga þjófa framar; alls eckert høfum vér misst af eignum vorum, og ei heldur vitum vér til, ad neinn annar nockud misst hafi; (þar skuldur var þó mjøg algeinginn hjá fólki þessu medan þad heidid var).“ Ýmsir partar af heil. Ritníngu eru, í því nýstofnada prentverki, allareidu á prent komnir, og eru keyptir med stærstu eptirsókn.

Er nú ecki þetta yfrid merkilig umbreytíng á einum 23 árum. Í því landi, hvar hid sárgrætiligasta ángistar óp heyrdist af þeim mannsképnum, sem dregnar vóru til dráps ad afguda ølturunum, og vein þeirra saklausu barnúnga, sem myrdt voru hópum saman, þar qvedur nú vid úr øllum áttum, gledifullt Halelújah Gudi þeim prísina til æru; og hann sjálfur tilreidir sér lofgjørdina af munni barna og brjóstmylkínga. O þér

hinir Christnu! hver á medal ydar er sá er ei villdi æskja sér, ad eiga og géta átt þátt ad þessa dýrdliga verks framkvæmd, yfir hvörju sannarliga er ein stór gledi á himnum uppi! Hver eyru hefur ad heyra, hann heyri!

* * *

Ad þad sæla ástand hins ádurumgétna nýumvendta heidna fólks hafi vid lidi haldist á sama hátt sem ádur, sýna eptirfylgjandi sagnir.

1) Skrif Missiónerans Crooks frá Otaheiti, dagset 9 Jul. 1818, svolátandi.

„Skip vort, sem leingi hefur verid í byggíngu, er nú búid, og á ad þéna til ad flytja Missiónerana til þeirra adsetursstada. 8 af oss verda hér og á Eimeo, en hinir 8 fara til austlægu eyjanna. Vér erum nú ad búa oss til ad stofna eitt nýtt prentverk. Allar félagseyjarnar yfirhöfud játa sig nú til Christindómsins, og ef vér samanberum lifnad þeirra flestu hér, vid þeirra svokölludu nafnchristinna heima hjá oss, verdur því ei neitad, ad Guds ord hefur fest hér dýpri rætur. Af þjófnadi vitum vér nú alls eckert ad seigja. Andagtaræfíngar haldast í hvörju húsi, og hjartanlig bænagjörd er ordin nærfeldt almeingin ydja. Þetta góda fólk álítur oss, í öllum líkamligum og andligum naudsynjum, sem fed-

ur og rádgjafa. Ádur voru þeir aumkunarverdir þrælar myrkranna Konúngs og myrdtu sjálfa sig og born sín. Nú nýtur kvennkynid hjá þeim tilhlýdiligrar vyrdíngar í því borgaraliga Félagi, og þar uppvex þvílíkur úngdómur, sem gledur sína Foreldra. Dásamlig er þessi hlutanna umbreytíng; svo þessi ord meiga útbrjótast af vorum munni: Þad er skéd af Drottni, og er undarligt fyrir vorum augum!" J Maii mánudi héldum vér hátídliga Samkomu, á hvorri allir 16 Missíónerar voru komnir saman. Vér neyttum þá allir undir eins þeirrar heilögu kvöldmáltídar, og lifdum dýrdarligan dag, á hvorjum stiptad var eitt Missíóns Félag millum þeirra innfæddu. Nú er þad algeingid ad menn kunna ad lesa, og einn kénnir þad ødrum. 3 þúsund Exemplør af Lúcasar Evangelío eru prentud, og sérhvørt eitt selst fyrir 3 mælira af Cocosnytjar olíu. Margar þúsund manneskjur eru sorgandi út af því, ad ecki eru fleiri Exemplør á reidum höndum. Menn hafa komid á skipum frá leingst fráliggjandi eyjum, til ad kaupa nockur Exemplør, handa fólki sínu. Þó vér hefdum 10 þúsund, geingi þau út í fáa daga. Innbyggjararnir á þeim austlægu eyjum, hvørt Missíónerarnir voru þó enn ecki komnir, hafa heyrt riktid frá oss, um þá Frelsun sem Drottinn oss veitta hefur,

og hafa burtu snarad sínum Afgudum siálfkrafa; (Dæmi til þvílíks eins finst ecki í öllum veraldarinnar árbókum). Þeir innfæddu hér ferdast siálfir til annara hérada, til ad prédika Evangelíum. Vid skólahöld höfum bædi vér og konur vorar mikid ad sýsla, en þetta erfidi er oss þó nærsta glediligt.

2) Inntak af bréfi sama manns, frá Otaheiti 24 Febr. 1819.

„Tveir höfdíngjar, ad nafni Utami og Pati, tveir í saunleika gudhræddir menn, erú ad búa sig til ad byggja nockra stóra báta, á hvorjum þeir vilja heimsækja þær fiærliggjandi eyjar, til ad færa þeim Jesú Evangelíum. Þeir hafa siálfir nád ypparligri Guds þeckíngu, og skilja, einkum Lúcasar Evangelíum, betur enn mörg þúsund í voru födurlandi. Þeir vita strags ad finna sérhvörn stad í því, og útlista hans meiníngu.“

3) — af Prestsins Marsdens bréfi fra Sydwallis 8 Jun. 1819.

„Kóngsins Pómarres stóra kyrkja, vígd Kóngi Kónganna til æru, stendur nú albúin. Í nærstlidnum mánudi héldu eyjarbúarnir eina stóra hvítasunnu hátíd. Þessu líkt hefur valla skedist sídan á Postulanna dögum. Þetta verk

er af Gudi! Missíónerarnir voru, á mannliga vísu ad seigja, eingauveigin varnir því erfidi, þó þeir vildu taka uppá sig mestu þrautir, skort og lífsháska, sem þeir og gjørt hafa, og einginn heima í Evrópa gétur svo ímindad sér, sem er, og eingir ávaxir mundu slíkt afbera.

Margir, jafnvel skynsamir, menn höfdu fyrir fám árum sídan litid, med hædandi veraldar vitsku og forakti, á þessa Missíón, og metid hana sem afkvæmi blinds trúar-ákafa, en Drottinn hefur gjørt spott vantrúarinnar til skammar; ávextirnir liggja opnir fyrir augum hinna bitrustu mótstandara, og þeim gétur einginn neitad.

Nú höfum vér þörf á ad fá mörg akuryrkju verkfæri, ef fólkid skal dýrka landid. Evangelíum færir líka svo plóginn med sér. Eg vona ad sá christiligi heimur muni ei heldur í þessu tilliti láta sínar kjærleiks gáfur bresta. Otaheiti þarf fyrst af reynslunni ad læra ad þeckja þær blessanir sem starfseminni fylgja; en til þess heimtast verkfæri. Án reguligrar starfsemi útvortis, gétur Guds nád ei fest stödugar rætur innvortis. Skuli því Christindómurinn nockurntíma rótfestast í eylöndum þessum, þá hljóta vísindi og æfingar hins borgaraliga lífs ad fylgja honum. Þetta sannar sú bædi eldri og nýrri tída histórîa."

4) Utdráttur af þess Lundúnska Missíóns Félags árs-skýrslum, fyrir árid 1820.

„Þann 13 Mai 1818 var af innbyggjurunum á Otaheiti og Eimeo haldin samkoma, á hvørri ad nærverandi voru, um tvær þúsundir þeirra, sem tóku þad rád, ad stipta á Otaheiti eitt Missíóns-Félag, til adstodar módur Félaginu í Lundún. Missíónerinn Nott prédikadi vid þetta tækifæri og því næst héldt Kóngurinn eina mjøg hjartnæma og hentuga rædu til safnadarins, og brýndi efnid fyrir honum mjøg innilíga. Nú med því þeir gátu ei géfid peninga (því þeir eru þar ecki ennnú til í landinu), rédi hann þeim, ad þeir géfa skyldu af landsins ávexti, en þó aldeilis frívíljugliga.

Ef svo færi, ad nockur féllist á rád sín, bad hann þá ad rétta hendurnar í lopt upp, og á sama augnabliki var sérhvør hønd upprétt, í øllum þeim stóra søfnudi. Sídan las hann fyrst upp fyrir þeim løg Félagsins, sem þar eptir prentud voru, og uppfest á øllum bænahúsum í landinu. Pómarre sjálfur var kosinn til Félags Forseta, og margir høfdíngjar kjørnir til ad vera fjárverdir og fulltrúar þess. Sídan snéru allir eybúarnir heim til sín apt[illegible], gladir yfir því sem þann dag skéd hafdi. Svoleidis lykt[illegible]i ein af þeim markverdustu Samkomum, er nockurntíma

hefur haldin varid; og menn þeir, ed sídar meir munu í rit færa þessa eylands kyrkjusögu, munu án efa, med gledi tilfinníngu, géta þess, ad þad fyrsta Félag, sem, eptir innleidslu Christindómsins í þetta land, stiptadist, og hvert allir innbyggjararnir inngeingu, hafdi fyrir augnamid útbreidslu þess heil. Evangelii; og þad fyrsta opinberliga Skjal, sem hér uppsleigid var, innihéldt upphvatníngu til innbyggjaranna, um ad þeir gjöra skyldu fríviljug tillog til framqvæmdar þessu heilaga verki.

Hvor gétur nú sá christinn madur verid, sem framanskrifada Skýrslu les edur heyrir, ad honum ei komi í huga þessi Jesú ord: „þeir fyrstu munu verda hinir sídurstu, og hinir sídurstu hinir fyrstu.“ Já med dýpstu audmýkt meigum vér til þess finna, ad Fólk þad, sem ad eins fá ein ár þeckt hafdi Jesú Evangelium, hleypur nú fram fyrir oss, sem í þúsund ár höfum þess blessana notid. O Dæmi þess mætti þó ad minsta kosti hverja oss til eptirbreytni. Sjá! Drottinn kémur! hans mikli dagur nálægist. Látum oss vera reidubúna, til at mæta fyrir hans augliti!

* * *

Merkilig frásaga um Afgáng eins Otaheitiſks manns, órið 1802.

Einn úngur maður, af innlendum, hafði verið í þénuſtu hjá einum Miſsíónera á Otaheiti; og ſem þeſſi fór heim til Englands, fylgði þénari hans með. Hann var ſkýrður, og fékk nafnið Jóſep Hodges. Náttúrugáfur hafði hann frábærar, ſem ſáſt, meðal annars, af því, að honum géck ſvo vel að læra það engelſka, hollendſka og móhriſka túngumál, að hann á ſkémri enn árs tíma gat talað þau öll ſkiljanliga. Þegar hann kom til Englands, var hann af Miſsíóns Félaginu á hendur falinn þeim æruverða Preſti Platt, og honum eigum vér ſvohljóðandi fráſögu að þacka, ſem fylgir: Ecki, fyrr enn ſkömmu áður enn Jóſep lagðiſt banalegu ſína, ſýndi hann nockur ſtaklig merki þeſs, að ſinni hans inntekið væri af guðligum hlutum. Þó hafði hann alltið haft ſtóra girnd til útvortis Guðs þjónuſtu, og með ſjáanligu kappi lærði hann þann innleiðða barnalærdóm allan ſaman. Nytſemin af þeſſu lét ſig helſt í ljóſi í hans ſíðarſta ſjúkdómi, þar hann, með hjartans ánægju, mintiſt þá margra greina úr honum, ſem áttu við áſtand hans. Þetta vakti opt þá von, að ef honum batnaði aptur, og gjæti komiſt heim til ſíns föðurlands, mundi

þad góda ſædi hjá honum géta þénad landsmonnum hans til hins beſta. En Drottinn, ſem rétt hefur til ad gjora þad vid ſína, ſem honum þóknaſt, áleit þénanligt, ad gjora þeſſa von ad eingu, en lét þó þetta himneſka ſædi verda ſálu ſiálfs hans, til beſtu bleſſunar. Adurenn eg ſeigi frá því, ſem af honum merktiſt í banaſótt hans, vil eg minnaſt eins tilfellis, er ſýndi, hvad mikla makt Guds ord feingid hafdi yfir Sálu hans. Af náttúru var géd hans mikid vidqvæmt, og, ef hann eittſinn reiddiſt, var ei alhægt ad mýkja hann aptur. Eittſinn komſt han í ſtríd vid einn af heimilis fólkinu, hvorjum hann vard ſvo gramur, ad hann, í 3 edur 4 daga, vildi eckert ord vid hann tala, enda þó, med beſtu ſkynſemdar áſtædum, leitaſt væri vid, ad ſýna honum ofan á, hvad óſæmilig þeſſi hans breytni væri, og menn létu hann þar á ofan merkja, ad ollum líkadi þetta illa vid hann; en einn morgun var leſinn í húsleſtri Kapituli, er hondladi um ſkyldu manns ad fyrirgéfa mótgjordir, hvar af tekid var tilefni ad brýna fyrir honum, hvad óforlíkunarſemin væri ſkammarlig og ſkadlig, er þá ſvoleidis tók á hann, ad hann féll þeim ſem kéndi honum og áminti um háls, og bad hann, med morgum tárum, fyrirgéfníngar.

Allt í frá því ſjúkdómur hans byrjadiſt tal-

adi hann mikid um Jesúm Christ. Hér um bil viku ádur, enn hann lagdist til fulls, spurdi einn af vinum hans hann ad: hvört hann béldi hann mundi deya, og hvört hann væri hræddur vid daudan? Þá svaradi hann ad hann óttadist hann ecki, því hann hefdi þá trú, ad hann færi til himnaríkis; samt væri sér kjærara ad meiga lifa, og fara aptur til sinna landsmanna, til ad boda þeim Jesum Christ, og vekja hjá þeim elsku til hans. Þegar hann var nú adspurdur: hvad hann þá ætladi ad seigja þeim? svaradi hann: þad ad Jesús Christur væri sannur Gud, kominn í heiminn, til ad giöra synduga menn sáluhólpna; ad Biblían væri Guds bók, sem kéndi oss þetta, og ad hún væri óyggjanligur sannleiki. Laugardags morguninn, þann 8 Maii, þá hann var adspurdur, hvörnig hönum lidi? svaradi hann, ad Gud hefdi nú géfid sér dálitlu meiri styrk enn ádur, æ Gud minn! géfdu mér styrk til ad vegsama þig! Gud géfdu mér rétta trú á Jesú Christs endurlausn! Gud hefur gjört stakliga vel vid mig, ad hann lét mig koma til Englands, til ad fá ad vita, ad Jesús Christur er í heiminn kominn, synduga menn sáluhólpna ad gjöra. Þín gjædska, minn Gud! varir ad eylífu. Þegar hann var nú minntur á, ad bidja Jésúm, svar-

adi hen med sterkri alvørugéfui: eg bid hann, ad hann fyrirgéfi mér allar mínar syndir.

O Jesú, Jesú! taktú mig til himnaríkis! ó hvørsu elska eg Jesúm; mig lángar sárlega eptir ad vera hjá hønum í himnaríki. Þar skal eg ad eylífu vegsama Gud fyrir hans Gjædsku vid mig og s. fr.

Opt lét hann í ljósi laungun sína til bænarinnar, og hann óskadi, ad eg vildi bidja ásamt sér. Þegar eg eittsinn spurdi: um hvad eg ætti þá ad bidja Gud handa hønum? svaradi hann: ad hann fyrirgéfi mér syndir mínar, og taki mig til himnaríkis. Eg badst þá fyrir ásamt hønum, og sála hans var mikid hrærd undir allri bænagjørdinni, og hún sýndist ad vera hønum til stórrar endurnæríngar. Eptir bænina, spurdi eg hann ad: hvørt hann vildi nú ecki heldur lifa, og fara heim aptur til síns fødurlands, þar landsmenn hans væru hønum svo hjartfólgnir; ellegar hvørt hann vildi heldur deya, og fara til himnaríkis? Hann hóf þá augu sín og hendur til himins og mælti: ef Gud vill láta mig deya, þá gjøri hann þad; en láti hann mig lifa, þá er mér þad líka svo kjært; eg er ecki hugsjúkur; gjøri Gud vid mig, hvad hønum þóknast; eg er ánægdur, hvørnig sem hann hefur þad! ef eg lifi, þá vil eg mjøg fús fara heim aptur til míns fød-

urlands, til ad kynna landsmønnum mínum frá ad Jesús Christur kom í heiminn syndnga menn sáluhólpna ad gjøra; (og í því hann sagdi þetta, dundu tárin í sífellu ofan eptir kynnum hans). Um kvøldid komu nockrir af vinum hans í húsid til hans, til ad bjóda honum gódarnætur; hann spurdi þá hvort þeir þecktu réttiliga Jesúm Christum? því, sagdi hann, ef þér ecki þeckid hann rétt, þá gétid þér ecki sáluhólpnir ordid, æ, bidjid hann fyrir mér; eg skal bidja hann fyrir ydur. O, eg bid þig Jesús, ádreifdu þá og mig med þínu fridþægíngar blódi. Nóttina þar eptir svaf hann alls eckert, og leid mikla pínu af sjúkdóminum. Um morguninn ósckadi hann med hárri røddu, ad menn skyldi bidja ásamt sér. Þegar þad skéd var, sagdi hann, med inniliga hrærandi røddu: Gud blessi ydur! Eptir þad hann feingid hafdi vitund um, ad Missións Félagid, ætladi ad halda sína árligu samkomu næsta midvikudag þar eptir, sagdi hann: eg vildi eg væri nú ordinn heill, þá skyldi eg koma þángad og vegsama Gud. Einginn hlutur er svo yndisligur, sem ad vegsama Gud í hans húsi. Þegar menn merktu nú, hvad veikur hann var, var hann bedinn ad taka nockud inn sér til styrkíngar. En hann mælti móti því og sagdi: eg þarf betri styrkíngar

vid, enn þeirrar sem þér gétid géfid mér; eg blýt ad hafa Jesúm Christum sjálfan. A álidnum deigi heimsókti hann einn otaheitiskur madur, sem komid hafdi á sídarsta skipi þángad. Þessi sýndist taka sér mjøg nærri, ad sjá hann svo sjúkan, og sagdist vera hræddur um, ad hann mundi deya; hvar til Jósep svaradi: ecki óttast eg þad; því eg fer til himnaríkis. Þessi adkomni, sem hét Orlo, færdi honum nockrar raudar fjadrir, og hami af ýmsum fuglum, til offurs handa Etóa (Otaheitanna afgudi), og sagdi, ef hann gjordi þad, mundi honum batna. Sá sjúki hristi hofudid, og sagdi: Etóa er einginn Gud eg þarf þessara hluta nú ecki vid, því eg hefi lært ad þeckja Jesúm Christum; hann hefur endurleyst mig, og vill hjálpa mér til himnaríkis. Yfir þessu hans svari vard hinn adkomni mjøg óánægdur. Eptir ad þessi landsmadur hans skyldi nú vid hann, sýndist hann verda mikid óróligur, rétt eins og hann, med hugsýki, æskti ad lifa leingur; Menn urdu þess varir, og søgdu til hans: Nú muntú ecki óska ad koma svo fljótt til himnaríkis? hvar til hann svaradi: eg óska þess víst fyrir mína persónu; en til ad géta sannfært mína fávísu landsmenn um, ad þar sé einn Jesús til, þá vildi eg heldur meiga lifa nockud leingur.

Þá mál var komid ad hátta, áminnti hann

sína medlærisveina mikid alvarliga, til ad elska Jesúm, og bidja hann, ad hann blessi þá! Þegar hann var spurdur, hvad hann héldi um sig yrdi, ef hann dæi á þeirri nóttu, svaradi hann med mildu brosi: ef eg dey, þá fer eg til himnaríkis; en lifi eg, þá vil eg fara heim aptur til míns fódurlands, og hátídliga kunngiöra hvad Jesús hafi vid mig giört og boda svo hans lærdóm opinberliga. Eptir þad fékk hann miøg sterkt adsvif, en sem hann hrestist aptur, og sá á andlitum þeirra nærverandi ad þeir høfdu ordid óttaslegnir, sagdi hann: þér erud hræddir um mig; hvad þurfid þér ad vera hræddir um mig? eg fer til himnaríkis. Hvad hafa menn þar ad óttast?

Allan mánudaginn var hann miøg þúngt haldinn, svo hann taladi mikid lítid, nema hafdi yfir nockur Sálmvers; og þad var hörmúng ad heyra, hvørsu hann qveinkadi. A þridjudaginn var hönum nockud léttara. Einn hans besti vinur og velgiørari sagdi þá til hans: þad gétur skéd ad þér batni, og þú komist heim til þíns fødurlands. Hann svaradi um siálfan mig hefi eg einga hugsýki, því nær eg dey, fer eg til himnaríkis. En hann fadir minn (hann meinti til síns holdliga fødurs); ad eg skuli fara til himnaríkis, en hann Fadir minn kannské til helvítis,

hvorsu sárgrætiligt er þad (og nu dundu tárin ofan eptir kynnum hans). En ef eg gjæti farid heim aptur til fødur míns og sagt honum frá Jesú Christo, þá kjæmist bædi eg og hann til himnaríkis. O hvillk lucka væri þad! Honum var þá sagt, ad þar væru Missiónerar í landinu, Gud kynni ad láta þá verda fødur hans til blessunar; en hann svaradi: eg er svo hræddur um, ad landsmenn mínir trúi þeim ecki; þad er þad versta. Æ, hvorsu gjarnan vilda eg géta kénnt Fødur mínum! Eg þecki Jesúm Christum; hann er sá einasti sanni Gud, en Etóa þeirra Otaheitiskn er einginn Gud. O, hvorsu skyldi eg seigja honum frá morgum og miklum hlutum, ef eg væri kominn heim! æ, minn vesæla fødur! Eptir þad var hann spurdur ad: hvort ein viss persóna, sem endur og sinnum hafdi heimsókt hann, hefdi ecki bedist fyrir ásamt honum? hvar til hann svaradi: O nei! hún seigir ad sønnu um sig: eg fer til himnaríkis, eg er ecki hrædd; en allan daginn í gégn sér madur og heyrir einga bæn, eckert ord um Gud og Jesús, eingan lofsaung í hennar húsi; en eg veit þad ecki — máské þad fólk bidji á nóttunni — þó samt er eg hræddur, hennar ástand sé ecki þad besta. Um kvøldid jukust verkir í honum; þad dróg æ meira af honum, nema rétt fáar stundir í millum, og þá var

hann sjálfr ad bidja; hann bad mikid fyrir sínu Födurlandi og einkum fyrir sínum födur; *) ad tvöldi þess sídarsta Sunnudags minkadi hóstinn, sem hann hast hafdi. Andardrátturinn vard þá þyngri, og hann taladi ecki framar. Í þessu ástandi var hann, þar til framyfir midnætti, þá hans sála — án nockurs merkiligs daudastrídsí líkamanum — fór til þess stadar, sem hann svo innilliga þrád hafdi, og um hvorn hann svo opt og ydisliga hafdi talad. Þetta skédi á mánudaginn þann 17da Maii 1802.

Lofadur veri Gud fyrir sinna barna frelsi!

* * *

En framar vil eg skýra nockud meira frá, um atburd þann, sem ádur er ávikid, hvorsu ad innbyggendur eyja þeirra, sem liggja til austurs frá Otaheiti, og kallast Sandvíkur eyjar, kostudu sjálfkrafa heidni, ádur heldurenn nockur kristinn Trúarbodari til þeirra kom, einúngis vaktir þar til, af fregn þeirri, þeir feingid hofdu frá Félagseyjunum, medal hvorra Otaheiti er, og adrar fleiri.

Vid sín gomlu Trúarbrøgd, nefniliga Taboo-bódkunina, høfdu heidingar þessir haldid ádur,

*) Gud hefur bænheyrt hann, því 12 árum sídar alkristnadist hans fødurland, sem ádur er sagt.

máské nockur þúsund ára, hvør líktust þeim sem fyrri voru á Félags eyjunum, og í nýa Hollandi, sem þó liggur nockrar 100 mílur þar frá. Kóngur þeirra Tamóri, sem ádur verid hafdi Godaprestur, fékk í sinni, ad géfa, í Novemb. 1819 þá skipun ut: ad dýrkan þessi skyldi hreint afmást, í øll goda musteri og garda skyldi eldur leggjast, og sídan skyldi kasta afgudunum á bálid. Þetta samþicktu allir Kóngsins yppurstu menn, og alls einginn af landsfólkinu setti sig þar á móti. Þessi Musteri voru mikid stór; veggirnir 12 til 14 fóta háir, þó med einfaldasta byggíngar máta. Þar nálægir voru gardar þeir, hvar líflátnar voru Manneskjur þær, sem Godunum fórnadar voru, en fyrir framan gardana stódu afgudabílætin, 3 til 14 fóta há; í afskræmisligri manslíkíngu. Trúabrøgdum þessum fylgdu ótal straung forbod, sem plágudu fólkid bædi á líkama og sálu; einkum var kvennkynid — eins og vídarst hjá heidíngjum — mestu ánaud undir okad. Karlar og konur máttu ei neyta matar saman, og matur þeirra mátti jafnvel ecki sjódast vid sama eld. Kjøt og Kartofflur — sem eru hin helstu næríngar medøl á eyjum þessum — mátti kvennfólk ei smacka, en hafdi þó mesta erfidid fyrir øllum áddráttum; og margt annad þessu líkt var

þar løgleidt í trúarbragdanna nafni. Væri á móti nockru þessu brotid, kostadi þad strags lífid.

Capteinar tveir christnir, frá America, Blair og Klark, sem í 20 ár høfdu þar kauphøndlun haft, láu vid akkér, á skipum sínum, hjá eyjunum, þegar ádursøgd kóngsins skipan: ad eydileggja afgudina, og alla þeim ádur helgada stadi, kom út; og þeir voru feingnir til ad flytja þessa stickun til nærliggjandi eyja, hvørri strags allstadar hlýdt var, svo samdægurs stódu øll musteri og God í ljósum loga. Ad vísu hafdi einn af þeim heidnu høfdingjum þar á eyjunum, fyrir laungu, talad á móti Taboo-dýrdkaninni, þó þad verkadi eckert; en nú æsktu allir ad fá til sín Missiónera, til ad uppfræda sig, eins og þeir fréttu, ad skéd hafdi á Félags eyjunum.

Gud hagadi því og svo til, ad skømmu þar eptir komu Missiónerar til þeirra, þegar best stód á; hvad eitt skrif frá sjálfum Missiónerunum, dagsett Hanarúra 23 Julii 1820, vitnar svo-hljódandi: „Lángt burtu frá þeim elskudu Zions múrum, í voru fødurlandi, umkríngdir af heidíngjum einum, lyptum vér þó røddum vorum lofsøngjandi til Guds, og vér krefjumst, ad vorir vinir taki undir med oss, fyrir þad hann hefur, hér á medal heidíngjanna, opnad oss vídan verkhríng. Nær vér komum híngad, fundum

vér ei framar fyrir ofs þau blódistorknu heidíngjanna bilæti. Drottinn hefur sjálfur allareidu afmád afguda þjónustuna og greidt veiginn sínu heil. Evangelío. Medan vér enn nú vorum á síglíngu híngad, og hroktunst midt í hafsins byljum, en Gudsfólk lá framfallid fyrir honum, sem bænheyrir trúada, nidurvarpadi hann heidíngjanna afgudum, uppbrendi þeirra musteri, og umbreytti svo fólksins hjortum, ad þad áleit þad nú fyrir skomm og viddbjód, sem þad ádur hafdi med stolti haft mestar mætur á. Loksins nádum vér þessum leingi gleymdu og vanræktu eylondum; en hvílíkar tilfinníngar ad þreyngdu sér í gégnum hjortu vor, gétum vér ei útsagt, þegar þær fréttir hljómudu móti ofs: „sá gamli Kóngur er dáinn; Taboo-dýrdkunin ad eingu gjord; afgudirnir uppbrendir; fórnagardarnir eydilagdir; goda prest-dæmid afmád!"

Armleggur hans, sem allri veroldu stýrir, hafdi unnid þennan sigur. Hans vísdómur vildi ad einginn daudligra skyldi sér þar af hrósa; og vér erum frá þeirri freistni frelsadir, en fáum þó med augum vorum ad sjá Drottins hjálprædi. Adur vér híngad komum, gjordum vér ofs ei adra von, en máske med lángsemi ad fá undirgrafid afgudadýrdkunarinnar djúplægu rætur, þar vér vissum, ad hin blódlitudu hjátrúarinnar ol-

uru stódu hér líka sem í trásð þeim allra kærsta og heilagasta. En hann, sem alleinn réttiliga kallast Drottinn, leit á þessa vidurstygd, og án þess ad þeirra vígdu Presta lúdrar heyrdust gjalla, hvørsu þau fyrir hans augliti og sukku í duptid nidur. Nú hefur hann — vor Frelsis Foríngi — bodid oss ad fylgja sér eptir, og reisa upp sigur merkid. Og lukkast hefur oss — lof se Gudi! — ad planta Krossins fánu á eyju þessari, og gledinnar himnesfi bodskapur útbrópast hér fyrir øllum, ædri sem lægri. Fúsir vildum vér gjøra þetta sama á øllum þessum eyjaklasa; en oss vantar mederfidara til ad prédika ord lífsins. Fólkid væntir med laungun eptir Christs bodordum, jafnvel þó nafn hans og nád sé þeim ølllum ókunnug. Brædur vorir, sem eru á eyjunni Kíróah líða mikla þraung; en von sú, ad erfidi þeirra verdi ecki ávaxtarlaust, hressir hjørtu þeirra. Kóngurinn þar gefur besta eptirdæmi; hann er þeirra hlýdinn Lærisveinn, og leitast vid ad verda fremri sínum undirsátum í því sem gott er. Hann getur allareidu lesid sæmiliga í Nýa testamentinu. Tvær af konum hans æfa sig í ad lesa, og kénna tveimur út frá sér og s. fr."

Nú sjáum vér, kjæru Lesendur! ad atburdur þessi er þvílíkur, ad hans líka hefur aldrei

viðborið í veröldu þessari, og slíkt hefði valla komið neinum í hug og hjarta.

Þetta er vissuliga einstök Guðs anda verkun; sem sýnir bezt að tími Drottins náðar tilkomu nálægist; sá tími, á hvörjum hann ödlast mun alla heiðíngja til arfs; og endimörk jarðarinnar til eigindóms.

Þessvegna, upp í Jesú nafni! upp til að erfiða í þessum stóra víngarði! Merkurnar standa hvítar til kornskeru, og kornskéran er stór, en erfiðismennirnir fáir; Biðjum því Uppskérunnar Herra, að senda út sem flesta erfiðismenn til uppskérunnar. O! látum oss sjálfa styrkja til þess, með ráð og dáð! Ekki einúngis biðja og óska, heldur sanna að vor bæn sé alvara; sanna það í verki og útlátum!

Heyrið þetta allir Jesú tilbiðjendur, og leggið það á hjörtun! verið ei leingi að hugsa yður um, hvað giöra skulið! Básúnan hljómar, raustin qveður við: Brúðguminn kémur, gángið út á móti honum! Vaknið upp þér sem dottið, og tilreiðið yðar lampa! þá munuð þér fá að inngánga hans Brúðkaup.

---